Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

12. tölublað · Þriðjudagur 20. mars 1979 · 8. árgangur · verð kr. 100.-






Baráttueining 1. maí hélt fund s.l. sunnudagskvöld 18. mars Var þar kosin Stjórn Baráttueiningar og samþykkt ályktun sem send var til Samfylkingar.

Þessar tvær hreyfingar hafa sem kunnugt er starfað á 1. maí undanfarin 2 ár. Þrátt fyrir að pólitískur grundvöllur aðgerðanna hafi í aðalatriðum verið eins hefur ekki auðnast að ná sameiningu. Þess vegna var á fundi Baráttueiningar litið á það sem höfuðmál að vinna að því að þessar hreyfingar haldi sameiginlegar aðgerðir 1. maí n.k.

Það er mat Stéttabaráttunnar að málin standi svo nú, að yfirgnæfandi líkur séu á sameiningu. Það mun marka tímamót í sögu marxismans-lenínismans hér og í baráttu gegn stéttasamvinnu og styrjaldarundirbúningi risaveldanna.

Ályktun fundar Baráttueiningar hljóðar svo í heild:

Til Samfylkingar 1. maí.

Á 1. maí n.k. munum við og öll alþýða Íslands standa frammi fyrir afleiðingum stéttasamvinnunnar; að auðvaldið með hjálp stéttsvikaranna veltir kreppu sinni yfir á verkalýðinn. Að undanförnu hafa endurskoðunarsinnarnir í Alþýðubandalaginu og stéttasamvinnupáfarnir innan verkalýðshreyfingarinnar óhindrað fengið að misnota sér traust verkalýðsins.

Afleiðingarnar eru annars vegar geigvænlegar kjaraskerðingar og hins vegar niðurbrot og eyðilegging á verkalýðshreyfingunni og því sem hún hefur áunnið í harðri baráttu. Gegn þessu verður allt framsækið fólk að snúast af fullri hörku og einbeitni.

Það er ekki aðeins hér á Íslandi sem nútímaendurskoðunarsinnarnir ætla sér sókn. Alþjóðaástandið ber það með sér að hér er um stærri hlut að ræða. Við verðum nú þegar að snúast gegn sósíalheimsvaldastefnunni og afhjúpa hana og stuðningsmenn hennar.

Staðan er nú þannig að Baráttueining og Samfylking eru í meginatriðum sammála um öll helstu baráttumál verkalýðsstéttarinnar. Og ástandið bæði innan lands og utan krefst þess að þessi tvö öfl standi saman um öflugar aðgerðir 1. maí næst komandi.

Því leggur fundur Baráttueiningar '79 haldinn þann 18. mars það til, að Baráttueining og Samfylking hafi sameiginlegar aðgerðir þann 1. maí n.k. og hefji nú þegar undirbúning að þeim.

# Deiluefnið í ríkisstjórninni: 3 eða 6.6% kauprán!



Alþingi skerðir æ ofan í æ lífskjör vinnandi fólksins og brýtur samningsréttindi þess.

Eðlilega beinist athygli manna nú að deilum ríkisstjórnarflokkanna. Það verður að játast að þessi nýjasta leiksýning þeirra er best leikin af öllum einþáttungum þeirra í vetur.

Nú er það Alþýðubandalagið sem setur fram kröfur "til að vernda kaupmátt launa hinna lægstlaunuðu" að sögn frammámanna flokksins.

Tilgangur þeirra er þó alls ekki sá að ganga út úr ríkisstjórninni heldur hræðast alþýðubandalagsmenn aðeins að þeir missi fylgi ef þeir halda áfram á sömu braut og hingað til í ríkisstjórninni.

Þess vegna var Gvendur Jaki sendur af stað til að reyna að miðla málum þegar alþýðubandalagsráðherrarnir ofléku og stefndu stjórnarsamstarfinu í hættu.

En mitt í öllu moldviðrinu sem alþýðubandalagsmennirnir hafa þyrlað upp kom þó í ljós um hvað deilt er eða öllu heldur að deiluefnið er í sjálfu sér ekki neitt.

Lúðvík Jósefsson upplýsti nýlega í sjónvarpinu að fyrstu tillögur forsætisráðherra hefðu þýtt um 10% kauplækkun 1. júní þegar kaupgjaldsvísitala verður reiknuð næst. Núverandi tillögur hans þýða hins vegar 6.6% kauplækkun en tillögur Alþýðubandalagsins þýða "bara" 3% kauplækkun 1. júní.

Deilan stendur svo sannarlega ekki um það hvort ráðast eigi á launin til að "minnka verðbólguna" eins og Lúðvík vill vera láta heldur í mesta lagi um það hvort kaupránið eigi að vera 3 eða 6.6%.

Eins og Lúðvík benti á í sjónvarpsviðtalinu um daginn er hægt að spara og lækka verðbólgu á annan hátt en að lækka kaupið. Það er hægt að skerða gróða atvinnurekenda með því til dæmis að skattleggja atvinnurekendur o.s.frv. En alþýðubandalagsforkólfarnir hafa engan áhuga á að hrófla við hagsmunum auðherranna.

Alþýðubandalagið er kaupránsflokkur af nákvæmlega sama tagi og hinir þrír en vegna þess að AB sækir að mestu fylgi sitt til launþega verður flokkurinn að þykjast svona af og til.

## Gvendur Jaki og Verkamannasambandið.

Annar þáttur í þessum kostulega sjónleik er hlutverk Gvendar Jaka. Hann er formaður Verkamannasambands Íslands og í krafti þess embættis hefur hann gert það að höfuðbaráttumáli verkamannasambandsins að viðhalda ríkisstjórn sem rífst um það hvort kaup eigi að lækka um 3% eða 6.6%.

Eru þetta einu valkostirnir sem Gvendur Jaki eygir fyrir hönd umbjóðenda sinna?

Og hvaðan kemur honum umboð til að nota á þennan hátt

Frh. á síðu 2.

# Samstarfsnefnd um dagvistunarmál

VÖGGUSTOFA



BARNAHEIMILI



Í janúar síðastliðnum var stofnuð nefnd hér í Reykjavík, sem mun berjast fyrir úrbótum í dagvistunarmálum. Að nefndinni stendur fjöldi samtaka. Nefndin hefur nýlega hafið undirskriftasöfnun undir kjörorðið "Næg og góð dagvistarheimili fyrir öll börn".

Eins og sjá má er þetta geysi víðtæk krafa sem allir ættu að geta tekið undir. Nefndin hefur gefið út dreifirit þar sem hún skýrir málstað sinn. Meðal annars er þar lögð áhersla á betri aðbúnað á dagvistarstofnunum, fleira starfsfólk, svo að því takist að sinna börnunum sem best. Þá er líka með tölum sýnt fram á hve þörfin er mikil hér á höfuðborgarsvæðinu. Stefnt er að því að safna 15-20 þúsund undirskriftum og leggja listana fram til borgarstjórnar. En þörfin fyrir dagvistun er gífurleg um allt land og því væri ástæða til að þetta samstarf væri víðtækara.

Það eru sjálfsögð réttindi allra barna að eiga kost á góðri og þroskandi dagvistun. Samstarfið er einmitt mjög nauðsynlegt núna á barnaárinu þegar afturhaldið upphefur enn einu sinni mjálmið um móðurhlutverkið og heimilið. Þessi áróður er til þess eins að kúga konurnar og einangra, auk

Frh. á síðu 3.

# Kröfuganga 24. mars

SJÁ BAKSÍÐU

# Skilyrði sameiningar

SJÁ SÍÐU 3

## KÍM

Aðalfundur KÍM:
Þríðjud. 27. mars kl. 20.3o
Hótel Esju, 2. hæð.

I. Venjuleg aðalfundarstörf.
2. Ýmsir fróðleiksmolar.
3. Önnur mál.

LEIÐARI

# 1. maí: Stéttasamvinnan og stríðshættan

Rúmur mánuður er nú til stefnu fram að 1. maí, alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsins. Þá fylkir verkalýðsstéttin um heim allan liði til baráttu fyrir pólitískum kröfum sínum um afnám stéttakúgunar.

Á Íslandi er mikilvægast fyrir verkalýðsstéttina að beita sér fyrir tveimur baráttumálum á 1. maí. Þau eru baráttan gegn stéttasamvinnustefnunni og stríðshættunni. Stéttasamvinnustefnan veður uppi innan allra stærstu alþýðusamtaka í landinu s.s. ASÍ, BSRB og VMSÍ. Alræðisvald forystumannanna lamar baráttukraft stéttarfélaganna, því þeir reka erindi auðvaldsins innan félaganna. Ósættanlega baráttu verður því að heyja gegn þeim og sigrast á þeim ef takast á að endurreisa stéttarfélögin sem virk baráttutæki.

Hinir s.k. vinstri flokkar, Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn, hafa algerlega snúist gegn alþýðu landsins með þjónkun sinni við innlent og erlent auðvald. Þessir flokkar hafa á nákvæmlega sama hátt og Sjálfstæðisflokkurinn og Framsóknarflokkurinn gerðu áður, skert umsamið kaup launafólks, þverbrotið samningsréttinn og svikið loforðin um úrbætur sbr. félagsmálapakkann. Þingflokkarnir eru allir hluti af borgaralega ríkisvaldinu og fjandsamlegir launþegum.

Stríðshættan magnast í heiminum. Bandaríkin eiga langmest ítök af öllum heimsvaldasinnuðum ríkjum í heiminum, efnahagsleg og pólitísk. En pólitísk hrörnun sem óhjákvæmilega fylgir kapítalismanum einkennir utanríkis-og innanríkisstefnu Bandaríkjanna og þau missa ítök sín hver af öðrum sbr. andstöðu þjóðfrelsisafla t.d. í Víetnam, Nicaragua og Íran. Hvar sem Bandaríkin hrökklast undan reyna Sovétríkin að sölsa til sín völdin. Hvert ríkið á fætur öðru verður nú að bráð sovésku heimsvaldastefnunnar og háð henni efnahagslega og pólitískt. Uppspretta yfirvofandi styrjaldar er gegndarlaus barátta þessara stórvelda.

Baráttueining 1. maí mun leggja megináherslu á þessi atriði þ.e. fyrir verkalýðsbaráttu á grundvelli stéttabaráttu og gegn heimsvaldastefnunni. Allt bendir nú til þess að Baráttueining 1. maí og Samfylking 1. maí, sem fóru kröfugöngur í sitt hvoru lagi í fyrra, geti nú sameinast í ár. Marxistum-lenínistum ber að leggja áherslu á að sú sameining náist því málefnalegur grundvöllur er fyrir henni.

Stéttsvikararnir í verkalýðshreyfingunni og bandamenn heimsvaldasinnuðu ríkjanna beggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, munu að hefðbundnum hætti gangast fyrir skrúðgöngu á 1. maí. Hér ræðir um krata Alþýðuflokksins sem fylgja Sám frænda í USA, endurskoðunarsinna Alþýðubandalagsins sem bæði styðja Sám og sovéska björninn og loks trotskyista Fylkingarinnar áköfustu málsvara sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna á Íslandi. Þessir aðilar gangast allir fyrir stefnu sem er fjandsamleg verkafólki og þeirra flokk fylla ekki meðvitaðir verkalýðssinnar á 1. maí. Þeir ganga undir merkjum marxismans-lenínismans með Kommúnistaflokki Íslands.

# Alþingi er andstætt herstöðva-andstæðingum

Ríkisstjórn Alþýðubandalagsins, Alþýðuflokksins og Framsóknarflokksins styður aðild Íslands að NATO og veru bandaríska hersins á Miðnesheiði. Þennan stuðning veitir hún ekki aðeins með þegjandi samþykki sínu og þeirri útvötnuðu röksemd að "efnahags málin hafi algeran forgang". Nei, stuðningurinn kemur líka berlega fram í verki.

Utanríkisráðherrann, Benedikt Gröndal, hefur sem embættismaður þessarar ríkisstjórnar farið á fund sendimanna Carters hérlendis, beinlínis til að biðja þá um að hlutast til um innanríkismál á Íslandi. Og svo er hann einn af forgöngumönnum að ráðstefnu íhaldsmanna Varðbergs, svörnustu talsmanna bandarískrar heimsvaldastefnu á Íslandi. Á þessari ráðstefnu var utanríkisráðherra einn aðalræðumanna, ásamt með Harry D. Train aðmírál NATO sem svo gat ekki mætt á þessa ráðstefnu herstöðvasinna.

Alþýðubandalagið hefur hingað til notað Samtök herstöðvaandstæðinga til atkvæðasmölunar. Nú þegar það er í ríkisstjórn sem hefur það á stefnuskrá sinni að herinn sé hér áfram og Ísland í NATO, vill AB veg SHA sem minnstan. Þetta kemur berlegast fram í því að AB vill sem minnstar umræður um hermálið, Þjóðviljinn gerir því æ minni skil. og forystumenn AB styðja ekki starf og stefnu SHA.

Herstöðvaandstæðingar verða að treysta á eigin krafta í baráttu sinni gegn NATO og hernum. Þar dugir ekki að treysta á þingræðisbrölt sjálfskipaðra forkólfa sem lofa öllu fögru en svíkjast svo undan merkjum.

SHA standa nú fyrir stóraðgerðum kringum 30. mars. Þá eru 30 ár liðin frá inngöngu Íslands í NATO. Nú er tækifærið fyrir herstöðvaandstæðinga að skipuleggja sig, taka þátt í starfinu og fylgja því eftir með áframhaldandi baráttu fyrir markmiðunum.

RAUDUR VETTVANGUR frá lesendum RAUDUR VETTVANGUR frá lesendum

# Lesandabréf

Vakið - og þér munið syfjaðir verða. Lesið - og þér munið augnstungnir verða. Nei félagar, enga vitleysu.

Ég var að lesa 8. tölublaðið og þar er auglýst grein á forsíðu um Mæðraheimilið eða Range Rover. Og eins og vera ber fletti ég upp á bls. 3 og las greinina. Greini er að vísu skemmtilega stutt en menn eiga ekki að kasta svona til höndunum þegar þeir skrifa Það vantar allan botn í greinina. Á að leggja Mæðraheimilið niður eða breyta því? Og svo í leiðinni hvaða hlutverki hafa Mæðraheimilið og Útideildin gegnt?

Rúsínan í pylsuendanum er svo þessi spurning um Roverinn hans Hjörleifs. Við skulum ekki reyna að finna samasemmerki milli tveggja aðskildra hluta. Fólk missir alla trú á blaðinu fyrir bragðið og hættir að lesa en hefur þó fulla sjón.

Batnandi blaði er best að lifa.

Ormur.

Ps. Svona fyrir utan allt nöldur þá er ég mjög hress yfir því hvað blaðið tekur margt til stúderingar. Greinarnar eiga að vera, sem þær eru, stuttar og upplýsandi.
Upp með húmorinn.
Ég bið ritnefnd vel að lifa.

Sami.

RAUDUR VETTVANGUR frá lesendum RAUDUR VETTVANGUR frá lesendum

# Svar ritnefndar

Ormur bendir réttilega á að í greinina um Roverinn og Mæðraheimilið vantar nánari umsögn um heimilið og Útideildina. Greininni var að vísu ekki ætlað annað hlutverk en að benda á misræmið milli orða og gerða ríkisstjórnarinnar, þ.e. meðan ekkert virðist skorta fjármagn til sumra hluta eru fjárveitingar til annara og nauðsynlegri hluta skertar.

Réttast hefði verið að gera Mæðraheimilinu og Útideildinni betri skil auk þess sem þessar stofnanir eru borgarstofnanir en Roverinn hans Hjörleifs er ríkiseign.

Stéttabaráttan tekur þessa gagnrýni fyllilega til greina og þegar er hafinn undirbúningur greinar um Mæðraheimilið og mun hún birtast í næsta blaði.

Hitt atriðið í gagnrýni Orms telur ritnefnd vera athyglisverðara en hann varar við því að setja samasemmerki milli óskyldra hluta. Eins og hann segir hlýtur slíkur málflutningur að leiða til þess að fólk tekur ekki mark á innihaldi greinarinnar.

Ritnefnd þakkar bréfið en bendir á að það er ekki vani hennar að birta nafnlaus bréf. Að sjálfsögðu höldum við nafninu leyndu ef bréfritari óskar þess.

Ritnefnd.

# Fréttatilkynning

Stéttabaráttunni hefur borist fréttatilkynning frá Einingarsamtökum kommúnista (ml). Þar segir m.a.: "Víetnam er útvörður sovésku heimsvaldastefnunnar í SA-Asíu og hefur ástundað þar grófa útþenslustefnu, sbr. innrásina í Kampútseu og hersetuna í Laos. Víetnamar hafa einnig haft í frammi sífelldar ógnanir við kínversku landamærin sem skálkaskjól til að byggja þar mikil hernaðarmannvirki og hafa hernumið kínverskt landsvæði. Þetta er liður í áætlunum Sovétríkjanna um að slá hring um og einangra Kína. Innrás kínverja nú er í raun gagnsókn til að binda endi á hernaðarbrölt víetnama við landamærin og eyðileggja hernaðarmannvirki þau sem nota átti til innrásar víetnama (þ.e. Sovétríkjanna) í Kína."

DEILUEFNIÐ Í RÍKISSTJÓRNINNI

Framhald af forsíðu.

trúnaðarstarf sitt?

Væri honum ekki sæmara að beita áhrifum sínum til þess að haldinn verði aðalfundur í Dagsbrún? Þann fund á að halda fyrir 15. febrúar en hefur ekki verið haldinn enn.

Meðan verkalýðsforingi AB trassar og fótum treður hagsmuni og réttindi verkamanna hefur hann nægan tíma til að "ganga um bæinn og bjarga ríkisstjórn", ríkisstjórn sem hefur sýnt það að hún er andstæðingur verkalýðs og annarra launþega.

Allt er betra en íhaldið.

Þessi setning er gjarna notuð af rökþrota stuðningsmönnum stéttasamvinnunnar til að réttlæta setu AB í stjórn.

En hvaða íhald er verið að tala um . Þetta sótsvarta í Sjálfstæðisflokknum eða sama lit í Framsóknarflokknum eða Alþýðuflokknum? Eða hvernig er með stéttasamvinnustefnu AB-forystunnar? Er það ekki íhaldssöm stefna, stefna sem beinist að því að viðhalda auðvaldsþjóðfélaginu?

Það skiptir ekki máli hver skerðir kaupið. Gegn þeim öllum verður að berjast, hvort sem þeir heita þingmenn AB eða Sjálfstæðisflokksins hvort sem þeir eru verkalýðsforingjar í AB eða Sjálfstæðisflokknum.

Ríkisstjórnin er kaupránsstjórn og aðildarflokkarnir eru kaupránsflokkar. Gegn þeim verður að berjast.

Frh. af baksíðu.

FRÉTTIR AF LEPPSTJÓRN VÍETNAMA Í LANDINU.

Nýlega skýrði blaðið Asiaweek frá því að þegar forsætisráðherra Víetnams, Pam van Dong, kom til Phnom Penh til að undirrita samning við leppstjórnina þá voru árásir svo miklar á borgina að senda þurfti liðsauka til verndar víetnamska forsætisráðherranum.

Leppstjórnin undir forystu Heng Samrin hefur ekki ennþá tekið sér fyrir hendur að reisa stjórnkerfi fyrir landið og þaðan af síður hefur fólk verið flutt aftur til borganna eins og mikið var hampað við valdatöku leppanna. Fyrir skömmu var haldinn áróðursfundur í Phnom Penh og af því tilefni voru 3000 manns fluttir til borgarinnar - og burt aftur til sveita að loknum fundinum.

# Skilyrði sameiningar

Hálfu ári áður en Kommúnistaflokkur Íslands m-l var stofnsettur í apríl 1976, hófust umræður og samningaumleitanir milli forvera hans (KSML) og Einingarsamtaka Kommúnista m-l.

Markmið þessara umræðna var skipulagsleg sameining íslenskra marxista-lenínista og afnám þeirrar sundrungar sem ríkti og ríkir enn í röðum þeirra. Sjálfsagt eru fjölmargir þeirrar skoðunar, að sundrungin sé sjálfskaparvíti og afleiðing kergju. Þetta á við nokkur rök að styðjast, þó að það gefi ekki fullkomna mynd af orsökum sundrungarinnar. Milli þessara aðila er og hefur verið margvíslegur ágreiningur jafnt fræðilegs sem starfræns eðlis.

Þessi ágreiningur er þó alls ekki svo djúptækur að hann réttlæti tilvist tveggja samtaka kommúnista. Þvert á móti er hann merki um heilbrigða skoðanabaráttu, rök og gagnrök, gagnrýni og sjálfsgagnrýni. Marxíska-leníníska hreyfingin hefur þróast fyrir tilstilli þessarar baráttu, hafnað og valið og lært að greina rétt frá röngu í mörgu tilliti. En slík skoðanabarátta yrði margfalt öflugri og markvissari ef hún væri háð undir merkjum eindrægni og félagsskapar í stað tortryggni og fjandskapar. Skoðanabaráttan má ekki vera blind og taumlaus, hún er lögmál sem getur hjálpað kommúnistum að þróa starfsemi sína áfram á meðvitaðan máta.

## Óþarfa farartálmar.

Í baráttunni fyrir sameiningu hefur oftar en ekki viljað brenna við, að aðilarnir gripu til þess óyndisúrræðis að skapa óþarfa farartálma, sem aðeins eru til merkis um vanmátt eða ugg gagnvart því erfiða verkefni, að setja niður þrætur og sameinast. Skilyrði eru sjálfsagt nauðsynleg og allir munu samdóma um það, að marxistar-lenínistar verði að leggja samtökum sínum traustan grundvöll. En hitt verður að forðast, að setja skilyrði sem eru þess eðlis að þau taka ekki til grundvallaratriða. Samningar milli tveggja kommúnískra samtaka hljóta að byggja á grunni hins vísindalega sósíalisma og taka sér flokkshugmyndir Leníns að fyrirmynd. Lenín setti þá skoðun fram og varði hana á eftirminnilegan hátt, að allir þeir sem viðurkenndu stefnuskrá flokksins, tækju þátt í daglegu starfi einhverrar einingar hans og greiddu flokksgjöldin gætu orðið félagar í flokki kommúnista. Stefnuskrá kommúnísks flokks verður að vera marxísk-lenínísk og hún er samþykkt sem slík af þingi flokksins. Starf allra eininga hans verður að vera í anda lýðræðislegs miðstjórnarafls, en það er grundvallarregla í skipulagi kommúnísks flokks.



Að setja skilyrði umfram þessi á naumast stoð í starfi og þjóðfélaglegri baráttu. Það er aðeins til þess að torvelda sameiningu og dreifa huga manna frá grundvallaratriðum marxismans-lenínismans.

Heimsástandið er ótryggt, íslenska alþýðan verður að byggja upp öflugan forystuflokk til þess að mæta styrjaldarógnunum. Þegar slík hætta er yfirvofandi og fer vaxandi með degi hverjum, er það beinlínis ábyrgðarleysi að vilja ekki allt til sameiningar vinna. Látum öll skilyrði sem sprottin eru af samtakaeigingirni eða öðrum hvötum en baráttu fyrir hagsmunum verkalýðsstéttarinnar kyrr liggja - freistum þess að sameina íslenska marxista - lenínista í einn öflugan flokk.

# Hvað gerist í Íran ?



Myndin sýnir hermenn fyrrverandi keisara Írans, flutta á herbifreiðum til Jaleh torgs í Teheran, 8. september 1978. Þá myrtu þeir með köldu blóði um 10.000 manns er tóku þátt í mótmælaaðgerðum. Nafni torgsins var breytt í Píslarvottatorg. Útsendarar Ísraelshers tóku þátt í fjöldamorðunum.

Miklar getgátur eru uppi um það hvað gerast muni í Íran á næstunni. Helstu atriðin í því sambandi eru spurningarnar um hvað risaveldin Bandaríkin og Sovétríkin ætlast fyrir og hvaða afstöðu stjórnvöld í Íran taka gagnvart þeim. Bæði stórveldin hafa enn mikil ítök í landinu og greinilegt er að Sovétríkin ætla sér mun stærri hlut. Þau hafa sent agenta sína til landsins hundruðum og þúsundum saman undanfarið.

Endurskoðunarsinnaði Tudeh-kommúnistaflokkurinn er helsti málsvari sósíalheimsvaldasinnanna í landinu. Hann reynir nú að seilast til valda og því er mikilvægt að barátta kommúnista fyrir sósíalísku Íran standi gegn honum jafnframt baráttunni gegn afturhaldsömu múhameðstrúarleiðtogunum.

Khomeni hefur greinilega snúist gegn fyrri bandamönnum sínum í byltingunni gegn keisaranum. Afleiðingin er sú að andstöðuhreyfingin sem var sameinuð hefur klofnað. Það hlaut líka að gerast því mikið greinir á í hugmyndafræði einstakra aðila hreyfingarinnar.

Forystuhlutur Khomenis hefur verið ofmetinn á Vesturlöndum. Það sést vel á því að verkamenn í olíuiðnaðinum snúa ekki allir aftur til starfa. Þeir halda á lofti kröfum um aðild að stjórnun fyrirtækja og hafa sumstaðar stofnað eigin ráðstjórnir. Konur hafa risið upp gegn kúgun múhameðstrúarinnar á þeim. Þær hafa mótmælt harðlega, krafist jafnréttis og mætt hörðu mótlæti af hálfu stjórnar Bazargans og Khomenis. Erfitt er að spá fyrir um endi þeirrar ósættanlegu deilu sem risin er upp milli vinstrisinna og hinna afturhaldsömu stuðningsmanna Khomenis.

Þrátt fyrir að stefna Khomenis í innanlandsmálum sé afturhaldssöm og vart til góðs fyrir alþýðu landsins er stefna hans út á við ekki að skapi risaveldanna enn sem komið er. Hann hefur ákveðið að selja olíu landsins hæstbjóðanda og neitað að selja fasistaríkjunum Ísrael og Suður-Afríku olíu og slitið öllu sambandi við þau yfirleitt. T.d. tók stjórn Írans upp stjórnmálasamband við Frelsisfylkingu palestínuaraba PLO og afhenti þeim aðsetur Ísraelsmanna og sendiráð í Teheran. En baráttan heldur áfram og á jafnvel eftir að harðna enn meir því langt er frá því að Íran sé orðið sósíalískt ríki. En að því stefnir stór hluti þjóðarinnar. Að öllu samanlögðu er líklegt að Íran verði mikið í fréttum á næstunni.

# Samstarfsnefnd um dagvistunarmál

Frh. af forsíðu.

þess sem það er alltaf kappsmál fyrir auðvaldið að skera niður félagslega þjónustu.

Goðsögnin um það hve ómissandi það sé fyrir hvert barn að hafa móður sína yfir sér allan liðlangann daginn er fals og blekking. Börn hafa engu síður en fullorðnir þörf fyrir félagsskap og skemmtun sinna jafnaldra. Þau verða líka að læra að standa á eigin fótum og að umgangast aðra. Þetta fá þau tækifæri til að læra í góðri dagvistun.

Fyrir utan þetta eru það víst fáar mæður sem geta boðið börnum sínum upp á þá fræðslu og tilsögn sem veitt er á dagheimilum og leikskólum. Til dæmis er oft erfitt um vik að leyfa liðinu að mála og móta eins og hugurinn stendur til. Hljóðfæri eru heldur ekki til á öllum heimilum og þó svo sé er ekki þar með sagt að mikið sé sungið eða spilað með börnunum.

Það er hins vegar rétt sem margir segja að það sé ekki gott fyrir ung börn að vera mjög lengi í dagvistun á daginn. Það stafar líka af því að aðbúnaður er ekki nógu góður á þessum vinnustöðum eins og svo mörgum öðrum. Það eru heldur ekki bara börnin sem ekki þola of langan vinnudag. Vinnudagurinn er almennt allt of langur hér á landi.

Margt fleira væri ástæða til að ræða varðandi þessi mál, en að lokum vekjum við athygli á eftirfarandi:

KRÖFUGANGA 24. MARS!

Nefndin hefur boðað til aðgerða þann 24. mars n.k. sem er laugardagur. Aðgerðirnar hefjast á Hlemmi kl. 13:30 og verður farin kröfuganga niður á Lækjartorg. Þar verður haldinn fundur með fjölbreyttu efni fyrir alla aldursflokka.

# Fundur Leigjendasamtakanna



Skrifstofa Leigjendasamtakanna, Bókhlöðustíg 7.

Sunnudaginn 18. mars var haldinn opinber fundur á vegum Leigjendasamtakanna.

Þar gaf stjórn samtakanna yfirlitsskýrslu um starf sitt.

Kostir og gallar frumvarps þess um leigjendamál sem nú liggur fyrir Alþingi voru skýrðir út m.a. af Ragnari Aðalsteinssyni, fulltrúa samtakanna í leigjendamálanefnd þingsins. Síðan fóru fram almennar umræður. Þar kom sérstaklega fram mikilvægi þess að Leigjendasamtökin séu styrk þ.e. að félagsmenn séu virkir og að þeim fjölgi frá því sem nú er (200 manns).

Á fundinum var stofnuð ritnefnd, sem á að sjá um útgáfu fréttablaðs um málefni leigjenda. Þeim sem kynnu að hafa hug á að taka þátt í starfi nefndarinnar er bent á að hafa samband við skrifstofu samtakanna. Einnig viljum við koma því á framfæri við leigjendur að stjórnarfundir samtakanna eru þeim opnir. Fundirnir eru venjulega haldnir á þriðjudögum kl. 20.30 en um það er hægt að fá nánari upplýsingar á skrifstofunni, að Bókhlöðustíg 7. Hún er opin frá kl. 13-17 virka daga og síminn er 27609.




LÚNS Í HOLLENSKA NASISTAFLOKKNUM?

Frá því hefur verið sagt í Hollandi að Jósep Lúns framkvæmdastjóri NATÓ hafi fyrrum verið félagi í hollenska nasistaflokknum. Hollenski nasistaflokkurinn gegndi miklu hlutverki við undirbúning innrásar þýsku nasistanna í landið rétt eins og nasistaflokkar annarra landa.

Framkvæmdastjórinn hefur sagt að hann hafi verið félagi í flokknum um þriggja ára tímabil á fjórða áratugnum en án vitundar sjálfs sín. Að sögn Lúns hafði bróðir hans skráð hann og fleiri úr fjölskyldunni í flokkinn.

Þetta yfirklór framkvæmdastjórans leiðir hugann að því hverjir hafi verið í íslenska nasistaflokknum. Þegar hann var lagður niður hurfu félagar hans inn í Sjálfstæðisflokkinn utan þeirra sem hættu afskiptum af stjórnmálum. Þeir sem hættu afskiptum hafa hins vegar margir hverjir uppskorið ríkulega umbun fortíðar sinnar og sitja nú í mikilvægum stöðum ríkisins, til dæmis lögreglustjórastöðu. Raunar eins og Jósep Lúns.

En þessir íslensku áttu kannski líka hrekkjótta bræður.



AÐ SEGJA SIG ÚR HEIMDALLI.

Það rifjast líka upp að félagar Heimdallar voru iðnir við að innrita fólk í selskapinn sinn án vitundar þess.

Einn þeirra fékk alltaf jólakort frá félaginu. Þrátt fyrir að hann tilkynnti Heimdalli að hann hefði engan áhuga á jólakortunum þeirra héldu þau áfram að koma.

Loks komu jól og ekkert kort. Vinurinn varð að vonum feginn að vera laus við þennan ófögnuð. En Adam var ekki lengi í Paradís. Hann fékk nýárskort í þetta sinnið.

Það er kannski bara tilviljun að þessar aðferðir eru svona líkar.

GEIR OG FJÖLMIÐLASÁLFRÆÐINGURINN.

Eins og alþjóð veit hefur íhaldið löngum þjáðst fyrir alvarlegu og freðýsulegu augun hans Geirs Hallgrímssonar heildsala.

Nýlega kom Geir heildsali þó fram í sjónvarpi með "nýtt andlit". Hann brosti og gerði meira að segja að gamni sínu.

Þetta finnst mönnum að vonum undrun sæta. Skýringin á þessu er þó ekkert furðuverk og þó. Sálfræðingur nokkur, sem fullnuma er í því sem þessi fræðigrein snýr að fjölmiðlum, var nefnilega fenginn til að kenna formanninum tilhlýðilega framkomu.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
12. tbl. 8. árg. 20. 3. 1979

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.


# MENNINGARDAGAR HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

Samtök Herstöðvaandstæðinga gangast fyrir Menningardögum að Kjarvalsstöðum nú um þessar mundir. Voru þeir settir með athöfn föstudaginn 16. mars, en þar fluttu ræður Ásmundur Ásmundsson formaður samtakanna og Thor Vilhjálmsson rithöfundur. Var gerður góður rómur að máli þeirra. Samtímis var opnuð myndlistarsýning í vestursal Kjarvalsstaða, en hún er yfirgripsmikil og fjölbreytt, enda fjölmargir listamenn sem eiga þarna verk sín á veggjum. Þá framdi sönghópurinn Kjarabót baráttusöngva við ágætar undirtektir. Þó kom ekki að trúbadorum og söngsveitum fyrir alvöru fyrr en daginn eftir þann 17. en þá komu fram allmargir söngvarar og hljóðfæraleikarar sem leggja vilja málstaðnum lið með listum sínum.

Gætti þar ýmsra grasa, auk Kjarabótar komu fram Þorvaldur Árnason, Bubbi Mortens, Kristján Guðlaugsson, Ingólfur Steinsson, Bergþóra Árnadóttir, Kór Rauðsokka og Sóleyjarsöngsveitin. Það vakti athygli hversu mikil breidd er orðin á baráttusöngvurum og muna yngstu menn þá tíð að tiltölulega fáir fengust til að troða upp með hljóðfæri og söng í þágu baráttunnar gegn NATO og hernum. Hér er orðin bæði mikil og gleðileg breyting á og hún nær ekki aðeins til tónmennta, heldur og til leikmenningar, skáldlistar og myndlistar. Dagskrá Menningardaganna er bæði fjölbreytt og viðamikil og má þar nefna tónleika, ljósmyndasýningu, leiksýningar og ljóðakvöld.

Af þessu sést hversu djúptækan stuðning Herstöðvaandstæðingar eiga meðal listamanna þjóðarinnar og það er ástæða til að hvetja alla til að leggja leið sína til Kjarvalsstaða til þess að sjá sýningar og skemmtanir sem þar eru á boðstólum. Vonandi verður framhald á þessari menningarstarfsemi samtakanna.



Á 30. mars 1949 beitti ríkisvaldið ofbeldi gegn alþýðufólki til að þvinga fram inngöngu í

FIMMTUDAGUR 22. MARS KL. 20:30
Kjarabót, Bubbi Mortens og Bergþóra Árnadóttir flytja létt lög.

LAUGARDAGUR 24. MARS KL. 20:30
Tónleikar með Eik, Sjálfsmorðssveitinni og Þokkabót.

MÁNUDAGUR 26. MARS Í LINDARBÆ
Alþýðuleikhúsið sýnir Við borgum ekki, við borgum ekki. Ágóði rennur beint til SHA.

Barnapössun á Kjarlvalsstöðum kl 14 - 18 laugardaga og sunnudaga.

## Kampútsea: Skæruhernaður og reglulegur hernaður

Undanfarið hefur sókn þjóðfrelsisafla Kampútseu harðnað og að sama skapi hafa vandræði víetnama aukist. Í útvarpi stjórnar Lýðræðislegu Kampútseu var nýlega sagt frá hlutverki skæruliðanna í baráttunni gegn víetnamska innrásarhernum.

Eftir sigurinn yfir bandarísku heimsvaldastefnunni árið 1975 voru skæruliðahóparnir leystir upp sem slíkir og skæruliðarnir sneru sér að jarðyrkju og matvælaöflun til sveita. Eftir innrás víetnama í landið um síðustu áramót voru skæruliðasveitirnar aftur settar á fót og hafa gegnt miklu hlutverki ásamt byltingarher Kampútseu.

Verkefni skæruliðahópanna, oft í samvinnu við alþýðuna á landsbyggðinni, eru skemmdarverkaaðgerðir svo sem að sprengja brýr, skera á samgönguæðar óvinarins, trufla umferð um þjóðvegi og gera skyndiárásir á víetnamska herflokka og löggæslumenn.

Skæruliðahóparnir vinna einnig með byltingarhernum við það að umkringja óvininn, eyðileggja vígstöðu hans og ráðast á flutningalestir. Útvarpið benti á að um allt landið væru starfandi slíkir smáhópar og þeir yllu hræðslu í herbúðum víetnamanna. Víetnamar hafa sjálfir játað að þessar aðgerðir valdi því að hermennirnir geti aldrei verið óhultir.

Frh. á síðu 2.




Kortið er úr Der Spiegel. Það var birt ásamt ferðalýsingu fransks blaðamanns Denis Reichle í lok janúar 1979. Örvarnar sína hvert hann fór. Það sem er athyglisvert við þessa ferð hans var að hann ferðaðist allan tímann á yfirráðasvæði rauðu khmeranna og á þeirra vegum.

## Vinstrimenn sigruðu í HÍ

Þann 15. mars sl. fóru fram kosningar til stúdentaráðs og kosnir voru 2 fulltrúar stúdenta í Háskólaráð. Alls kusu 1550 manns eða 53% kjósenda. Úrslit urðu þau að Vaka hlaut 647 atkvæði eða 44.35% og 6 menn kjörna, en Félag vinstri manna hlaut 813 atkvæði eða 55.65% og 7 menn. Sjötti maður Vöku sigraði áttunda mann vinstrimanna naumlega og bætti Vaka þannig við sig einum manni frá síðustu kosningum. Í kosningum um fulltrúa í Háskólaráð urðu úrslit þau að Vaka hlaut 640 atkvæði og 1 mann, en Félag vinstrimanna hlaut 842 atkvæði og 1 mann kjörinn. Þau úrslit eru óbreytt frá síðustu kosningum.

Heildarúrslitin sýna að stúdentar treysta vinstrimönnum betur fyrir baráttumálum sínum heldur en Vökustaurunum úr Heimdalli. Sprengjuþráðurinn á "bókhaldsóreiðubombunni" brann upp til agna án þess að nokkur sprenging yrði vegna þess að bókhaldsóreiðar var ekki til. Úrslitin sýna einnig að stúdentar álíta það ekki vera sér til hagsbóta að "með auknum sparnaði í rekstri Félagsstofnunar sé hægt að bjóða betri og fjölbreyttari þjónustu". Þeir átta sig nefnilega á því að Vökumenn eru þarna í hrópandi mótsögn við sjálfa sig, vegna þess að aukinn sparnaður hlýtur að meira eða minna leyti að koma niður á þjónustu. Vinstrimenn börðust fyrir því að láta ríkisvaldið bera halla Félagsstofnunar og sú stefna sigraði.

## Kröfuganga

Samstarfsnefndin um dagvistunarmál gengst fyrir kröfugöngu laugardaginn 24. mars.

Mæting verður að Hlemmi kl. 13.30. Gangan fer af stað kl. 14.00.

Gengið verður niður Laugaveg. Að lokinni göngu verður útidagskrá á Lækjartorgi. Þar verður:

- Eitthvað skemmtilegt fyrir börnin.
- Stutt ávarp.
- Fjöldasöngur.
- Sönghópurinn Kjarabót.
- Sönghópar og margt fleira.

Kröfurnar í göngunni verða þessar:

1. Fleiri dagvistarheimili í öll hverfi.
2. Fleiri skóladagheimili strax.
3. Gegn niðurskurði borgaryfirvalda á framlögum til dagvistarmála.
4. Bætt kjör og vinnuaðstaða fyrir fóstrur.
5. Færri börn á hverja deild.
6. Betri námsaðstöðu fyrir fóstrunema.
7. Betri aðstöðu á gæsluvöllum.
8. Jafnréttisuppeldi.

Fjölmennum í aðgerðirnar.